14 Jaa/ bølvadur vere sa svikare/ sem
hefur eitt kallkins i hñs hiørd/ z giør-
er heit/ z offrar þvi fordiarfada fyrer
Drotteñ/ Þvi eg er eirn stoor Konung-
ur/ sagde sa Drotteñ Zebaoth/ z mitt
nafn skal vera hrædelegt a medal heid-
ingiaña.

II. Capitule.

Straffs Predikun i moote Prestaña z
Foolksens Syndum.

O g nu/ þetta bod heyrer ydur
til/ prestar.
2 Ef þier ecke heyred þad/
z ef þier ei legged þad a hiar
tad/ad giefa minu nafne dyrdena/ sag-
de sa Drotteñ Zebaoth/ þa vil eg senda
* bølvanena a ydur/ z bølva ydar bless-
uñ/ Jaa eg hefe egso (allareidu) bøl-
vad sierhvørre (af þeim/) af þvi þier
vilied ecke taka þad til hiarta.
* 5. Mos. 28/ 15. etc.
3 Sia/ eg fordiarfa ydur sæded/ og
dreife * saur yfer ydar andlit/ (jaa) ydar
hatijda saur/ z hñ skal taka ydur burt
med sier. * Amos 5/ 21.
4 Þa * skulud þier vita/ ad eg hefe
sendt þetta bod til ydar/ af þvi mitt
sattmaale er vid Levi/ sagde sa Drott-
eñ Zebaoth. * Zach. 2/ 9.
5 (Þvi) mitt sattmaale vid hñ var lijf-
sens z fridarens (sattmaale/) og eg gaf
honū þau til otta/ og hñ ottadest mig/
og hñ/ hñ vard hræddur fyrer mijns
nafns saker.
6 Sañleikans løgmaal var i hñs mu-
ñe/ z þar var * ecke oriett funded a hñs
vørum/ hñ giekk med mier fridsamlega
z riettvijslega/ og snere mørgum fra
illskuñe. * Zoph. 3/ 13.
7 Þvi eins prests varer skulu vardvei-
ta vitskuna/ z þeir skulu leita løgmaal-
sens af hñs muñe/ þvi hñ er sa Drott-
ens Zebaoths eingell.
8 Eñ þier erud burtvikner af veigen-
um/ þier voryd marger til eirnrar a-
steitingar i løgmaalenu/ fordiørfudud *
þañ Levi sattmaala/ sagde sa Drotteñ
Zebaoth. * v. 5.

9 Þar fyrer hefe eg egso giort ydur
foraktanlega z lijtelsiørlega fyrer øllu
foolke/ med þvi þier ecke hielldud mij-
na vegu/ og aalijted persoonurnar i løg-
maalenu.
10 Høfum vier ecke aller eirn fødur?
hefur ecke * eirn Gud skapad oss? hvar
fyrer verdur (þa) svikeñ sa eine af þeim
ødrum/ ad vanhelga vorra fedra satt-
maala? * Job. 31/ 15.
11 Juda aaldroo/ z þar er skien svijvird
ing i Israel og i Jerusalem/ þvi Juda
vanhelgade Drottens heilagleik/ sem
hñ elskade/ z took sier til hustrur eins
framande guds dootur.
12 (Eñ) Drotteñ mun uppræta þañ
mañ/ sem þad giørde/ af Jakobs tialld
budū/ þañ sm̄ er vakande/ z svarar/ og
þañ/ sem lætur framkoma mat-offur
fyrer þañ Drotteñ Zebaoth.
13 Þetta añad giøred þier ogso/ ad
þier med graate hilied Drottens alta-
re/ (jaa) med graate z andvarpan/ ad hñ
ecke framarmeir lijtur * til mat-offur-
sens/ edur tekur vid nockru þocknan-
legu af ydar hende. * c. 1. 10.
14 Og þier søgdud: hvar fyrer? af
þvi Drotteñ hefur vitnad i millū þijn
og i millum þiñar æsku hustrur/ sem
þu hefur aaldreiged/ eñ þo hun være
þiñ jafninge/ z þijns sattmala hustru.
15 Og hefur hñ ecke giort (utañ) *
eirn (matter þu seigia/) jafnvel þo hñ
hefde Andañ (umfram?) og hvar fyrer
(ecke nema) sa einaste? hñ leitade Guds
sædes. Þar fyrer vared ydur i ydar an-
da/ ad eingeñ aaldrage siñar æsku hust-
ru. * Es. 51/ 2.
16 Ef nockur hatar (hana/) (so) laat
(hana) fara/ sagde sa Drotteñ/ Isra-
els Gud/ z ofrijked mun hylia yfer hñs
klæde/ sagde sa Drotteñ Zebaoth. Þar
fyrer vared ydur i ydar anda/ og aal-
draged ecke.
17 Þier giøred Drottne mædu med *
ydar ordū/ þo seiged þier: hvar med
giørum vier (honum) mædu? i þvi þier
seiged: hvør sem giører illa/ þocknast
Drottne/

Drottne / og hn̄ hefur lyst til þeirra /
edur hvar er doomur eins Guds?

* C. 3. 13/ 14.

## III Capitule.

### Spaadomur um̄ Johan̄em ꝛ Christū.

Sia/ eg sende min̄ eingel/ ad hn̄
skule tilreida veigen̄ fyrer mi-
nu auglite / Og strax mun sa
Drottenn koma til síns must
eres/hvørs þier leited/ og sattmaalans
Eingell/ s þier hafed lyst til/ Sia/hn̄
kiemur/ sagde sa Drotten̄ Zebaoth.

* Matth. 11/ 10.

2 En̄ hvør kan̄ þola hn̄s tilkomu-
dag? ꝛ hvør kan̄ standast nær hn̄ open
berast? Þvi hn̄ er sem eirn smelltande
elldur/ꝛ sem þvotta-man̄a saapa.
3 Og hn̄ *mun sitia ꝛ bræda/og hrein
sa silfred / ꝛ hreinsa eni børn/ꝛ skaga
þau sem gulled ꝛ sem silfred / þa munu
vera fyrer Drottenn þeir sem frambera
mat-offred i rietklæte. *Zach. 13/ 9.
4 Og Juda og Jerusalems mat-offur
mun þocknast Drottne / sem fyrrum og
sem a þeim̄ fyrre aarum.
5 Og eg vil nælgast ydur til doomsens/
og vera eitt fliott vitne i mote galdra
møn̄unū / ꝛ i mote hoorkøllunum / og
mote þeim̄ sem sveria falsklega/ ꝛ moote
þeim̄ sem utsvikia (dag-)launarans la-
un/ ꝛ (underþryckia) ekiuna og fødur
lausan̄ / ꝛ snua eins framande (maal-
efne/) og ecke ottudust mig/ sagde sa
Drotten̄ Zebaoth.
6 Þvi eg * er Drotten̄/eg um̄breitest
ecke/ Og þier Jakobs børn/ þier erud
ecke forkærd. * 4 Mos. 23/ 19.
1 Sam. 15/ 29.
7 Fraa ydar fedra tyd burtvikud þier
fraa mijnū setningum / og vardveittud
þa ecke/*Snued vid til mijn/ ꝛ eg vil
snua vid til ydar / sagde sa Drotten̄
Zebaoth/ꝛ þier søgdud. hvar med skul
um vier snua vid? *Zach. 1/ 3.
8 Skillde ein man̄eskia ræna Gud? en̄
þier ræned mig/ og søgdud: hvar med
rænū vier þig? med tiunderne og upp-
lyptingun̄e.
9 Þier erud vissulega bølvader/ ad þier
ræned mig/ (jaa) þad giorvalla folk.
10 Bered alla tiundena til mijns korn
hus/og læted þad(sem þier nu ræned/)
vera i mijnu huse / og læted þa reyna
mig þo þar med/sagde sa Drotten̄ Ze-
baoth/hvort eg ecke opna ydur Himen-
sens ren̄ur/ og uthelle ydur blessan/þar
til þier hafed ecke noog (ad læta 1.)
11 Og eg vil straffa uppetaran̄ fyrer
ydar skulld / ad hn̄ ecke skule fordiarfa
ydar avøxt / a mørken̄e / og vijnviduren
skule ecke vera ydur oavaxtarsamt a
akrenum/ sagde sa Drotten̄ Zebaoth.
12 Og aller heidingiarner munu pry-
sa ydur farsæla/ Þvi þier/ þier skulud
vera eitt þocknanlegt land / sagde sa
Drotten̄ Zebaoth.
13 Ydar * ord eru sterkt i moote mier/
sagde Drotten̄/En̄ þier søgdud: hvad
tøludū vier i moote þier? * C. 2/ 17.
14 Þier søgdud: þad er faafeingelegt
ad þioona Gude/og hvad hiælpar þad/
ad vier løkum vara a hn̄s varatekt /
og ad vier gaungum i sorgar(klædum)
fyrer þess Drottens Zebaoths augsiyn?
15 Og nu / vier prijsum stollta / þeir
sem giørdu illsku / eru bæder uppbygd-
er/ ꝛ freistudu Guds/ꝛ komust undan̄.
16 Þa tøludu þeir/sem ottudust Drott
en̄/hvør til sijns vinar: Drotten̄ gief-
ur þo giætur (þar ad/) og heyrer þad/
og þar er skrifud ein min̄es book fyrer
hn̄s auglite / fyrer þa / sem ottudust
Drotten̄ / og minkust hn̄s nafne.
17 Og þeir skulu / sagde sa Drotten̄
Zebaoth/ a * þeim deige / sem eg vil
giøra / vera mier eirn sierdeiles (eigen-
doomur/) Og eg vil * * spara þa/sem
eirn madur sparar sin̄ son/ sem þioon-
ar honum. * C. 4/ 3.
** 1. Mos. 19/ 16.
18 Þa munud þier(snua vid/og siaa/)
hvada mismunur þar er i millum eins
rietlferd.

riettferdugs og eins ogudlegs/ i millum
eins/ sem þienar Gude/ og eins/ sem
ecke þienar honum.

## IV. Capitule.

### Framveiges um Christum.

Hvi sia/ dagurenn kiemur / sem
brennur/ sem ofnenn/ þa skulu all-
er stollter/ og hvør/ sem giør-
er ogudlegleikann/ vera straa/ og
sa dagur / sa sem kiemur/ skal upptend-
ra þa / sagde sa Drottenn Zebaoth /
sem skal ecke skilia þeim epter root
eda grein.
2 Þar i moot skal * upprenna fyrer yd-
ur/ sem otteft mitt nafn/ riettlætesens
sool / og þar skal vera læknesdoomur
under hennar vængium / og þier skulud
ganga ut/ og * * vaxa upp/ sem feiter
kalfar. * Luc. 1/ 78. * * Es. 55/ 2.
3 Og þier skulud undertroda ogud-
lega / þvi þeir skulu verda aska under
ydar foota ylum/ a þeim deige/ hvørn
eg giøre / seiger sa Drottenn Zebaoth.
4 Minnist * Mose myns þienara løg-
maals/ hvørt eg byfalade honum uppa
Horeb/ til alls Israels/ (ja) setning-
anna og rietindanna.

* 2. Mos. 20/ 2. etc.

5 Sia/ * eg sende ydur Elias spaa-
mann / fyrr enn sa stoore og hrædelege
Drottens dagur kiemur.

* Matth. 11/ 14. etc.

6 Og * hann mun snua fedranna hiarta
til barnanna / og barnanna hiarta
til þeirra fedra / ad eg skule ecke ko-
ma/ og slaa Jørdena med banne.

* Luc. 1. 16/ 17.

ENDER
a Malachiæ Book.

## Ender a Spamønnunum.